Jerusalem/og fundu þa ellefu til samans saf-
nada og þa sem hia þeim voru / huörier ad
sögdu/ ad Drottenn være sannarlega vpp aptur
risenn/og hefde birst Simoni. Og þeir tiadu
þeim huad skied hafde a veigenū/ og huorneñ
þeir höfdu þeckt hañ j þui hañ braut Braud-
ed. Og þeim trudu þeir ecke helldur, Enn
þad var ad Kuellde þess sama Þuottdagsins/
og Dyrnar voru aptur lucktar/ þar ed Lære-
sueinarner voru til samans komner fyrer
hrædslu saker/vid Gydingana.

Enn þa ed þeir voru ad seigia þar vt af-
kom Jesus sialfur og stod þar i midted/og sag-
de til þeirra/ Fridur sie med ydur/og avijtade
þeirra vantru og Hiartans hardwd/þad þeir
hiöfdu ecke truad þeim sem hann höfdu sied vpp
aptur risenn. Enn þeir ottuduft og vrdu hrædd-
er vid / þui þeir meintu þad þeir mundu sia
Anda nöckurn.

Og hañ sagde til þeirra/ Þui eru þier so
ottaslegner? Og huar fyrer kiemur þuilijkur
Þanke i ydar Hiörtu? Siaed mynar Hendur
og mynar Fætur ad eg em hñ sialfr / þreifed
a u mier/og skoded/þuiad eirnn Ande hefur ecke
Hold nie Bein/ So sem þier siaed ad eg hefe.
Og þa hañ sagde þetta/synde hañ þeim Hend-
ur og Fætur. Og þa vrdu Lærefueinarner
gladder vid ad þeir sau Herran.

Og er þeir trudu þa eñ eige fyrer Fagn-
adar saker/vndrande þetta/sagde hñ til þerra
Hafe þier hier nöckud til Matar? Og þeir
sögdu

sögdu fyrer hān eitt Styckie af steiktum Fiske og Hunangs seim. Og hann tok þad og at fyrer þeirra Augsyn.

Enn hañ sagde til þeirra/ Þetta eru þau Ord sem eg sagda til ydar þa ad eg var hiaa ydur/ Þuiad þad hlaut allt fullkomnad ad verda/ huad af mier skrifad er j Moisis Lögmaale og Spamanna Bokum og j Psalmum. Þa opnade hann þeirra skilnings Sinne / so ad þeir forstodu Ritningarnar / og sagde til þeirra/ So er þad skrifad/ og so hlaut Christur ad lijda / og a þridia Deige vpp aptur ad rijsa fra Daudum / og predika lata j sinu Nafne Idran og fyrergiefnig Syndanna a mal allra Þioda/ vpphefiande til Jerusalem. Enn þier erud Vottar alls þessa, Og hā sagde enn til þeirra j annad sinn/ Fridur sie med ydur / Lijka so sem ad Faderen hefur sent mig so sende eg ydur/ Og þa ed hann sagde þetta blies hann a þa og sagde til þeirra/ Medtaked Heilagan Anda/ Huerium þier fyrergiefed Synderna þa eru þær fyrergiefnar/ og huerium þier aptur hallded þær/ þa eru þær þeim aptur halldnar.

Thomas einn af þeim tolf sa ed kallađ er tuibure/ var ecke hia þeim þa Jesus kom/ Þa sögdu hiner adrer Læresueinarner til hans/ vier höfum sied Herran. Enn hann sagde til þeirra/ Nema ad eg sie þad eg siae naglaförin j hans Höndum/ og eg lāte mijna Fingur j Naglaforen / og eg legge mijna Hönd j hans

Sydu/þa true eg ecke.

Og atta Dégum þar epter vôru hans Lærefueinar eñ aptur þar jnne og Tomas medur þeim. Þa kom Jesus ad lyktum Dyr-um/ stod i midet ag sagde/ Fridur sie med yd-ur. Þar epter a seiger hann til Tomasar / Riettu þinn Fingur hingad og sia þu mynar Hendur/ og riett þyna Hönd hingad og legg hana i mijna Sydu / og vert ecke vantruadur helldur truadur. Tomas suarade og sagde til hons/ Drotteñ miñ og Gud minn. Jesus sagde til hans / Aþ þui þad þu hefur sied mig Thoma/ þa truer þu/ Sæler eru þeir sem ecke sia og trua þo.

Epter þad þa openberade sig Jesus eñ aptur vid Siaþar hafed Tiberiadis. Eñ hañ openberade sig so / ad þar voru til samans Simon Petrus og Tomas/ sa ed kalladest Tui-bure/og Nathanael vt aþ Cana i Galilea/ og Syner Zebedei og tueir adrer aþ hans Lære-sueinum. Simon Petrus seiger til þeirra / Eg vil fara ad fiska / þeir sögdu til hans / Vier villium og fara med þier. Þeir geingu vt og stigu jaþnsnart a Skip/og a þ..irre sömu Nottu feingu þeir eckert. Eñ ad Morne kom-num stod Jesus i Siaþarströnñe/ Eñ Lærer sueinerner vissu ecke ad þad var Jesus / þa sagde Jesus til þeirra/ Börn/hafe þier eckert til Matar? Þeir suörudu hönum/ Ecke neitt. Eñ hañ sagde til þeirra/ Kasted vt Netinu til hægre Handar/ vid Skiped/ þa munu þier finn-

finna nockud. Þa köstudu þeir þui vt/og gatu
ei dreiged fyrer fiölda saker Fiskanna.

Þa sagde sa Lærisueirnen sem Jesus hñ
elskade til Peturs/ Herrann er þad. Þa Si-
mon Petrus heyrde þad ad Herrann være k/
vafde hañ Skyrtuñe vm sig/ þui hañ var nak-
en/ og fleygde sier vt a Sioen. Eñ hiner ad-
rer Lærisueinarner komu a Skipe/ þuiad þe
voru ecke langt fra Lande/ so nær sem tuo
hundrud Alna/og drogu Neted med Fiskum.
Og sem þeir stigu a Land/sau þeir Elldsglæd
ur og Fisk þar yfirlagdan og Braud. Jesus
sagde til þeirra/færed hingad af þeim Fisk-
um sem þier hafed nu feinged. Simon Pet-
rus stie vpp/og dro Neted ad Lande fullt af
storū Fiskū/Hundrad þryr og fimtiger/ Og
þott ad þeir være so marger/ þa rifnade þa
ecke Neted i sundur. Jesus seiger til þeirra/
Komed og hölldum Maltyd. Eñ eingen af
Lærisueinunū þorde ad spyria hañ ad/ huör
ert þu/þuiad þeir vissu ad þad var Herrann.
Þa kom Jesus og tok Braudeð/ og gaf þeim
þad/so lyka og einnen Fiskenn. Þetta er nu hid
þridia sinn/ þad Jesus openberade sig synum
Lærisueinum/ epter þad hañ var vpprisenn
fra Daudum.

Þa ed þeir höfdu nu Matar neytt/seig-
er Jesus til Simonar Petrus/ Simon Jon-
as son/ elskar þu mig? Hann sagde: [illegible]
Ja Herra/þu veist ad eg elska þig. Hañ [illegible]
þa til hans/ Fæd þu Saude myna. [illegible]

 [illegible]

hañ eñ annad sinn til hans/ Simon Jonas Son elskar þu mig. Hann sagde hönum/ Ja Herra/ þu veist þad ad eg elska þig. Hañ seiger þa til hans/ Fæd þu Saude myna. Hann seiger þa i þridia sinn til hans/ Simon Jonas Son/ elskar þu mig? Petur hrygdest vid þ ad hañ sagde i þridia sinn til hans elskar þu mig? Og sagde til hans/ Herra/ þu veist alla hlute/ þu veist og ad eg elska þig. Jesus seiger til hans/ Fæd þu Saude myna.

Sannlega sannlega seige eg þier / þa þu varst yngre/ gyrter þu þig sialfur / og gieckst huert þu villder/ Eñ nær þu tekur ad elldast munntu þyna Hendur vtbreida/ og eiñ annar mun þa gyrda þig/ og þangad leida huert þu villt ecke. Enn þetta sagde hañ/ til teiknande med huorium Dauda ed hañ munde Gud prijsa. Enn þa ed hañ hafde þetta sagt/ seiger hañ til hans/ Fylg þu mier epter. Eñ Petur snere sier vid og leit þañ Læresuein epterfylgiande huörn Jesus elskade/ sa ed vm Kuölldmaltijd eina hafde a hans Brioste liged og sagt/ Herra / huör er sa ed þig suikur? Þa Petur leit nu þeñañ/ seiger hañ til Jesu/ Herra/ enn huad skal þesse? Jesus seiger til häs/ þo eg vilie hañ blyfe/ þangad til ad eg kiem/ huad vardar þig vm þad? Fylg þu mier epter. Þa gieck su Ordræda vt a medal Brædrañа/ þesse Lærisueinn deyr ecke. Og Jesus sagde ecke til hans/ Hañ deyr ecke/ helldur/ þo eg vilie hañ blyfe þangad til eg kiem/ huad vardar þig vm þad?

þad? Þesse er sa Læresueinn sem vm þessa hlute ber Vitne/og þetta hefur skrifad / og vier vitum ad hans Vitnisburdur er sannur.

Enn þeir ellefu Læresueinar geingu burt j Galileam/vppa eitt Fiall/þar ed Jesus haf-de fyrer skipad/og þar vard hann siedur/meir enn af fim̄ hundrud Brædra j senn/af huørium̄ ad marger lifa enn nu/en̄ sumer eru sofnader. Og þa þeir sau han̄/kniekrupu þeir fyrer hönum/en̄ sumer voru efablandner. Og Jhesus gieck til þeirra/talade vid þa og sagde/ Mier er giefed allt Valld a Himnum og a Jördu/ þar fyrer ganged vt vm allan Heimen/ og prediked Euangelium allre Skiepnu/ og kienn-ed öllum Þiodum/og skijred þær j Nafne Föd-ur og Sonar og Heilags Anda. Og kienned þeim ad vardueita allt huad eg hefe bifalad ydur/ Huör hann truer og verdur skijrdur sa mun holpen verda /enn huör han̄ truer ecke sa mun fordæmdur verda.

Enn Teiknen sem þeim munu fylgia ed trua eru þesse/ ad i mijnu Nafne munu þeir Diöfla vtreka/ nyar Tungur tala/Höggorma vpptaka/og þo þeir drecke nöckud banuænlegt mun þad ecke skada þa/yfer hina Siuku mun þeir Hendur leggia og þa mun þeim batna. Og sagd/ Eg er hia ydur alla Daga/allt til Heimsins enda.

Adur enn hann var nu vpp numen til Himens burt fra þeirra Augum Actor: 1. Luc: 24. Cap: Tiade han̄ sig lifanda sijn-

 um

um Postulum/ epter Pijst sijna/ og pad sama
pyrer marghattadar audsyningar/ og liet pa
sia sig vm fióruttiie Daga / og talade pyrer
heim vt ap Guds Rike/vpplukande pyrer him
peirra skilnings Sinne suo ad peir porstodu
Ritningena. Og sem hann hapde pa saman
kallad/baud hañ peim/ad peir pære eige vt ap
Jerusalem/helldur ad peir skylldu epter bijda
Fyrerheite Födursins/og sagde/ Siaed eg mun
senda yrer ydur pad Fyrerheit mijns Födurs/
sem pier hafed ap mier heyrt/ Enn pier skul
ed blijpa i Borgeñe Jerusalem/ pangad til ad
pier verded iklædder med Krapte vt ap Hæd/
um. Puiad Johañes hañ skijrde med Vatne/
enn pier skulud med Heilögum Anda skyrder
verda/ecke langt epter pessa Daga.

Enn peir sem par voru til samans kom
ner spurdu hañ ad og sögdu / Herra/ villtu a
pessum tijma vpp aptur rietta Israels Rijke?
Enn hann sagde til peirra/ pad heyrer ydur
eige/ ad vita Stunder edur puncta Tijmaña/
huöria ed Faderen hefur sett i sinne Magt/
helldur munu pier ödlast Krapt Heilags Anda
sa sem yfer ydur mun koma/ og pier munud
mijner Vottar vera til Jerusalem/ og i öllu
Judea og Samaria/og allt til hins ysta Jarð
ar enda.

Enn hañ leidde pa vt allt til Bethani
am/og hoff vpp sijnar Hendur og blessade pa.
Og pad skiede pa ed hañ blessade yfer pa/ept
er pad hañ hapde nu nöglega til peirra talad/
epter

epter sijna Vpprisu/veik hann fra þeim/og vard
vppnumen til Himens/hm asiaondum / og ein
Sky tok hann vpp fra þeirra Augsyn. Og sem
þeir horfdu vpp epter hönum til Himens
farenda / Sia þu / þa stodu hia þeim tveir
Men j hvitum Klædum / huorier ed sögdu /
Þier Men af Galilea/huar til stande þier og
horfed vpp i Himenenn? Þesse Jesus sem vpp
numen er fra ydur til Himens/mun koma lijka
sem þier sied hann til Himens vpp fara.

Enn þeir tilbádu hann/og sneru aptur til
Jerusalem/med myklum fagnade/af Fiallenu
sem kalladest Oliueti/huört ad nærre er Jeru
salem /og liggur þar eina Þuottdags gongu
burt fra. Og sem þeir komu þar inn / stigu
þeir vppa þann Sal huar ed vaner voru ad
vera Petur og Jacobus/Johannes og Andre
as/ Philippus / Thomas / Bartholomeus og
Mattheus/ Jacobus Alphei son og Simon
Zelotes / og Judas Jacobi Broder. Þesser
aller voru jafnan til samans med einu sam
hellde j Bæn og akalle/a samt med Kuinnon
og Maria Modur Jesu og hans Brædrum/
og voru alla tyma i Musterenu / lofudu og
prijsudu Gud.

Og a þeim Dögum/stod Petur vpp a med
al Lærisueinanna/og sagde, (Enn Flockur hier
Manna er þar voru til samans komner/voru
nær tuttugu og hundrad) Þier Men og Bræd
ur/ Þeirre Ritningu byriade vpp ad vpfyllast
huöria ed andur hafde fyrer sagt hinn heilage

Ande fyrer Munn Dauids/ vt af Judas/ sa ed var þeirra leidtoge sem Jesum höndludu/ þuiat hañ var talen medur oss/ og hönū haffde hlotnest Hlutdeilld þessa vors Embættis/ Hann hefur og jnntaked þañ Akureñ fyrer þad ranglætes Verdkaup/ og hefur heingt sialfan sig vpp/ og er j midiu sundur j tuo hlute brosten og hefur öllum sijnum Jnnyflum vt hleypt/ og þad sama er kunnugt orded öllum þeim er til Jerusalem byggia/ so ad sa same Akur verdur a þeirra Tungu kallatur Hakeldama/ þad er blods Akur.

Þuiad so er skrifad j Psalmabokeñe/ Hūs Setur skal i eyde verda / ad ei se sa neirn sem þar jñne bygge/ og hans Byskupsdom medtake eiñ annar. Þar fyrer hæfer þad / ad eiñ vt af þeim Mönnum sem alla tijma hafa hia oss verit/ fra þui ed Jhesus tok ad ganga vt og jnn vor a mille/ j fra Skyrn Johaññis allt til þess Dags ed hañ var vpp numen fra oss/ ad einn af þeim verde Vottur hans Vpprisu medur oss.

Og þeir settu til tuo/ Joseph þañ er hiet Barsabas ad Vidurnefne/ Just. Og Matthiam/ bädust fyrer og sögdu/ Drotten/ þu sem kant allra Mañā Hiortu / syn oss huörn þu hefur vtualed af þessū tueimur/ so ad hañ medtake þē Þionustu og postulegt Embætte/ j fra huörju ed Judas er fra fallen/ Þad hañ fære þangat j sinn Stad. Og þeir lögdu Hlute yfer þa/ og Hluturen fiell yfer Mattheum/

og hañ

og hann var reiknadur til tölu þeirra ellefu postula.

Og þa ed fullkommnuð Hvijtasunnudag var / voru þeir aller med einum Huga j þeim sama Stad / Og þar skiede skyndelega eit Hliod af Himne / lijka sem mykels tilkomande Vindar / og uppfyllde allt Hwsed þar þeir satu j . Og a þeim syndust sundurgreinanleger Tungur so sem ad være þær Gloande. Og hann sette sig yfer sierhuørn þeirra / so þeir urdu aller fuller af Heilögum Anda / og toku til ad priedika med annarlegum Tungumaal um / epter þui sem Heilagur Ande gaf þeim til ut ad tala. (Les huad þar meira stendur / Actor. 2.)

Enn þeir geingu ut / prediktudu j öllum stad um / Drottne samverkanda / og Ordeð styrkiande medur epter fylgiande Teiknum.

# Foreydsla og Nidurbrot Borgarennar / Jerusalem.

Enn þa sa tijme tok ad nalægiast / ad Gud Himneskur villde gange hart yfer Jerusalem og allt Gydinga Folk / sinna eilijflega heyndar Reide / etc. ... þui sem Spamenner og Herran Christus hafa þar ... sagt þeim fyrer / og kunngiört ... Og nu

Ognan byrer laungu/ Sie/ þa haþa þesse epter erþylgiande Teiknen geinged vndan aduer þroman til.

Af Himnenum sast eitt heillt Aar vm kring ein Cometa/ jafn gieingt Borgene/ þann ed huer Madur matte vel sia/ so ad lijta sem eitt tuij eggiad Suerd være.

Item / skamt eitt byrer þa sætu Brauds daga/ a þeim attunda Deige Aprilis Manad ar/ nærre hinne niundu Stund / vm Nottena/ hepur v.d Haalltared j Mustérenu til Jerusalem/ birst eitt skiært Ljosbranda/ skijnanda Ljos/ bad huör Madur þeinkte ad þad være bjartur Dagur.

Item/ ein stor mykel og sterk kopar Hurd/ jnn j Musterenu/ þar ed tuttugu Menn vrdu a ad taka/ nær ed þeir villdu hana lata vpp luka/ huör ed bundrud var med storum Lasum og sterkum Jarngöddum/ hepur nær hinne siettu Stundu vm Nottena ap sialpre sier til vpp lokest.

Item/ þann xvij. Dag Junij saust j Lopt enu og Skyonum j storum ættum a Himnenum/ Vagnar/ Skeiþa/ og so sem eina ohinmyktra Fylking / vt af rydande Herinönnum og Strijds þoike/ sgga til saman i Skyonum/ og sydan slaste med myklum Gny og Vopna brake/ Ope og kalle/ vm Nottena.

Item/ þyrer sialþan Hugtasunnudag/ þa Prestarner haþa vilad tilreida hid jnnra j Musterinu/ þad sinn til Hatijdardagsins heyrde ... Pa haþa ...

þa hafa þeir heyrt miked Skialldur og Ot-
læte/ Og þar epter a eina Raust / huør ad so
hefur hropad / R..tum oss fara j burt hieden
an. Þo ad sumer seige/ ad þetta hafe skied a
þeim Tyma/ þa ed Christur var pyndur/ j þui
ed Tiallded Musteresins j sundur rifnade.

Item/ þar hafde og sa Madur vered sem
hiet Jesus Anani eins otyginns Mans son/
sa hinn same/ sem hann var nu komen til Jeru
salem vm Tialldbudar Hatydena / þa hefur
hann vt af einum sierlegum næsta akaflegum
Anda/ þann hareyst æpt og kallad / Eitt
Kall wr Austre / Eitt Kall wr vestre/ Eitt
Hygdar hliod wr fiorum attum Vindanna/
Eitt Oop og kall yfer alla Jerusalem/ Yfer
sialft Musterid/ Eitt aumlegt Oop bæde yfer
Brwdena og Brwdgumann/ Eitt Oop og eym
dar kueinan yfer allan Lyd. Og þetta sama
grætelega eymdar Oop/ framde hann einatt
bæde Daga og Nætur / og hliop so sem einn
annar sinnulaus Madur/ vm kring j Borgenne.
Og þott ad nockrer þeir ed ecke giarnan heyr
du þesse Ord/ so sem eina vonda Forspa yfer
Borgena/ refsudu hønum fyrer þetta og hwd
strycku hann med Suipum og Reyrum/ þa liet
hann þo ecke ad helldur af slyku. Og sem þeir
hofdu nu þennan Mann fyrer Landsdomaran/
huørn ed Romuerjar hofdu þar innsettann/
sa hinn same liet og einnin hwdstryka hann/
pusta og berja/ so ad blæde hefur. Enn med
øngud Orde þa hefur hann sier huørke Vægdar

Bie

nie Kynnar bered. Og allt a medañ þeir leimi
du hañ og bördu/ þa gret hñ. huórke nie luei
nade/ helldur kalladi hañ j sifellu med harre
Raust so sigiande/ Vei/ Vei / Vei/sie þier þu
hin auma Jerusalem. og Albinus sa ed
Landsdomaren var/hefur halided hañ fyrer
einn Skipting og sinnulausan Mañ. En þisse
hinn same Madur hefr slö sampöst Aar/huert
epter annad/eij myked Sidblande átt v d ad
ra Meñ/helldur rafad og reikad einn saman
Thia sem sa Madur sem eitthuad sierlegt héfr
j sinne/eliegar sa ed nöckud nyrt villde vpp-
kvetta. Og alla Tyma hefur hañ lated þesse
Ord af sier heyrast/ vei/ vei/ vei sie þier. O
þu hin auma Jerusalem. Eg vt af sodden
Ofe og Laile vard hoñ ecke modur. Og þa
ed Borgen vard nu vmkringd/ af þeim Rom-
verium/ hefur hann med jafnade rafad vm-
kring/vppa Murveggiunum/ og þañen kallad
Vei sie yfer Borgeñe/ vei sie yfer Musterenu/
vei yfer öllu Gydinga Folke. Og ad sydustu
þa hefur hañ auken eitt sinn lagt þesse ovan-
nieg Ord þar til/ Vei sie eirnen mier Vesölū.
Og j þui hinu sama sinne sem hañ talade þsse
Ord / var hann oforvarandis hæfdur vt af
einn Sleyte ovitandà. Þesse og önnur stor
bysn og furduleg Vndur / geingu ædur fram
an til/ fyrr eñ þad Borgen Jerusalem var-
alein broten.

Nu

## Nu vilium vier vt af sialfre Tor eydslūñe/og nidurbrote Borgareñ er seigia hid styrsta vier kuñum.

Þa Gydingarner hófdu nu (epter þui sem Heilage Stephanus seiger) so sem samner Suikarar og Mordingiar / hiñ Riettlata og Meinlausa Christum Jhesum af Lijfe teked. Upp fra þui er þeir so giórdu/ þa hefur þad yfer allt Gydinga Land og Jsraels Rÿke/ j allskyns Stiettum elnad/ og vid vesnanda. Byskuparner sialfer tóku til ad vetka hinum ódrum Prestunum allmeigin yfer gang. Og a millum þeirra hinna annara Magtar mañá sem i Stadnum voru/ þar var allskyns hatur og Fiandskapur / so ad aller Luter horfdust til Sundurþyckiu j Rÿkes stiornēñe. Og þad liet so. ad siast sem ad være þar ein ogurleg vmskipting og Fortydsla Rÿkesens fyrer Hondum. Vt af slijku Sundurþycke og Hatre Valldsmañaña er þeir hófdu sijn a millum/ kueikteft vpp Flocka drátter og allskyns misgreiningar Foreystur og Jlþyde. Einnen lyka þa hofst þar vpp allshattar Ogiæfa bæde hid jnnra j Borgeñe Jerusalem. og so lyka vtan Stadar / tokst vpp mykid Ran / Mañdrap og Gripdeilder /og aller hluter skickudu sier þar til / ad bæde sa hinn Andlega og Verulldlega Rÿkes stiornen/ hefde sins/ ætte þa snarlega ad forganga.

Aller

Huor fyrer þad skede so eirnin/ ad Keis
aren Nero skickade Cestum Florum j. Gydin/
galand. Og sem hann var nu miög bystur og
næsta hardradur vid Gydin/ga i öllum hlut
um/fremmande sinn Motþroa/ Ohlutuende /
og Kyrlæte / Þar fyrer þa hafa Gydingar
ner fuipt hañ Valldenu / og j burt Jagad.
Og sem hañ bardest vid þa/ miste hañ vel fim
Þusunder maña / vt af synu Lide. Þannen
þa ædru nu og olmudust Gydingarner fyrer
Guds til skickan/so ad þeir settu sig einen vpp
a mote Romuerium og fiellu fra þeim. Enn
sem Keisaren Nero fornam þad/ skickade hañ
Flauium Vespatianum med einum hans Syne
Tito jnn i Syriam..

Og þad var j þann tijma ordþleyke vm
alla Austur alfu (so sem Tranquillus/ hañ
skrifar)og eitt almenings Rykte/ þad a þeim
Dögum munde koma þeir nöckrer vt af Ju
dea/ sem næsta mykler og miög Megtuger
skylldu verda j öllum Heime. Og þo ad þetta
fullnadest nu a þui hinu Andlega Rykenu
Christi/þañ tijd ed Nafn vors Herra Jhesu
Christi(huör ed fæddur er vt af Gydinga
Kyne) Vard nu fyrer Predikan Heilags E
uangelij/ myklad og vt breitt vm allan Heim
en/ Þa hafa þeir sumer vnder staded þetta
vt af þeim tueimur Vespatiano og hans syne
Tito. Enn Gydingarner þyddu þessa Prog
nosticon / (edur Forspa) vppa sig. Og nu
[illegible] ad þeim höfdu luckast nöckrar Orustur j
mote

Móte sijnum Óvinum/urdu þeir vid þad dreissugier og drambsamer/reliande sier þria Hers Höfdingia/þeir ed so hietu/ Nigrum/ Peraitã Silam af Babilonia / og Johañem Esseum. Og þeir herittdu med allre Mágt vppa Borg sem nærnest Ascalon / so ad þeir misstu þar j tueimur Orustum tuo sijna hers Höfdingia/ og so nær sem tuttugu Þusunder Maña.

Enn epter allt þetta þa dró Vespatianus wt af Keisarons tilskipan j Galileam/sem var eitt Land fullt Folks/þad sama foreydde hañ og vtarmade/ Og þar vard nalega eing en endning a Mañdrapum/ Ræne/Gripdeilldum/og Elldsbrenum. Eitt siñ þa vrdu þar j Hel slegnar otal þusunder Gydinga/ Fim þusunder vngra Kalla/ ad auke Konur og Börn/ og annad alþydu Folk/ huad ofteliansegt var/ so ad Strijds folked hefur huørke vægt þar vngum Mañe nie gömlum / og ecke eirnen þeim Konum sem oliettar voru/og eij helldur Vngbörnum j Vögguñe. Sex þusunder vngra Karla hefur Vespatianus eitt sinn skickad i Achaia/til Jsthimo/so sem fyrer ad Vaa Vinumenn/ad grafa þar vpp Vatsgrafer og Dyke. Þriatigi þusunder vnger Strijds meñ af Gydingum voru j þañ tyma eitt sinn selder fyrer eiginlega Þræla. Fim þusunder hlupu sialfer vt af Aurvalnan ofan fyrer Biörg og drapu sig so.

J þann sama tyma var þar eirñ frabær Madur / sem bæde var forsiall vitur og vel

færdur/medal Gydinganna/Riettemans Stiett-
ar/eirn vt af þeirra hers Höfdingium/sa hinn
same hier Josephus. Og sem hann flyde nu j
þeirre fyrstu Athijgdinne med þocknа Gydinga
burt j eitt Dals minne hia þeirre Borg j
Galilea/ sem nefndest Jtapata/ og þar vard
hann Höndum tekenn og hafdur burt til Vespa-
sianum. Og sem hann spaade þui fyrer honum
þad hann munde verda Keisare/þa var hann vel
teken af hönum i kostulegu Hallde. Og þesse
hinn same Josephus hefur skrifad huad vier
vitum vt af þessare Historiu.

Enn a medan þetta skiede nu i Galilea
þa tok sig til samans eirnn illþydis Flockur
margra Rans manna/og komu sijdan til Jeru-
salem. Enn þui hinu sama þa hefur eirn af
þeim stor Höfdingium til vegar komed/sa ad
Johannes hiet/ad hann so vnder sig legde fyr-
er þennan illþydes Flock alla Rijkes Stiorn-
ina. Optsinnis skiede þar til Jerusalem mörg
heimugleg Manndrap / Raan og Gripdeilldер
mykilar. Og aller Hluter skickodu sier þar til
mykillrar Olucku / so ad su hin auma og vес-
sala Borg/hefer a alla vegu næsta miög plag-
ad og þuingud vered.

A þeim tyma voru og nöckrer Riettmes
manna Höfdingiar i Hel slegner / og i sialfu
Musterinu vard optsinnis Blode vt hellt.
Josephus hann skrifar/þad vt af þeim hin-
um Edlabornustu og ædstum Gydingum/ þa
hafe i þessum ofridar Storme tolf þusund-
er

er i Hel veted slegnar/ Og þad þeirra Gotz/ Hafur/Gardar/og Odul være stryds Möñum um til bytes giefen. Sumer þeir meina þad hiner Romuersku hafe þessu med sinne Slægtuisku/og Blokindum til vegar komed.

Þannen var nu Jerusalem i þann tijma plægud/þa ed riettelieg Hefnd kom yfer hana sem var med þrefalldlegre Olucku/ Fyrst med þeim ofridar Storme af þeim Romuerium/ Þar næst med vpphlauponum og allskyns/ grimdar æde jnnan Borgar / Og so med þa Dyrkinga og Jllmeñe / huórier ad fyrer Slægtuisku misgiórningaña/settu sig vpp huór epter audrum/og vthelltu so Herradæmesins vegna margra Maña Blode.

Eñ i þañ tijma þa ed þeir Gadareni toku sig vpp i mote Romuerium/hlaut Vespatianus ad hrada miög sinne ferd burt wr Vetrar lagenu / og med Strijde ad vinna Borgena Gadara/og fyrer Placidum sinn Hers Höfdingia flo hann til Dauds i Flottanum nær þriatigu þusunder Borgar maña. Tuær þusund under tok hañ til fanga. Enn hitt añad alþydu Folked og flestur allur fiölden flotta Mañaña/steypte sier sialfur vt i aña Jordan allt vt i Sioen Asphalten/ huern ed vier köll um hid dauda Siafar hafed. Og so lijka hin um meigen Jordanar/allt til Macheron voru Gydingarner alla vega af Romuerium hrung ader og næsta miög skielfd[illegible] og yfer bugader.

Enn sem Veturen tok ad lyda/ og Vored [illegible]

 [illegible]

var komed/þa heyrde Vespatianus þaß Rukte j synu Herbwdum til Cesarea/ þad Nero være daudur. Þui flytte hañ miög sinne Ferd. Og alla Stade bæde Gydingaña/og þeirra i Jdu mea hafde hañ þa vnder sig lagt / ad vndan teknum þeim einum Herköstölum / huöria ad nöckrer Framende Strids menn höfdu ad hallda. Og allstadar þa sette hañ jnn i þess/ar Borger og Kastala Romuerskt stryds Folk so ad hñ þeinge þess audueilldar Borgena Jeru falem yser vñed/huör ed þa var eñ ei yser vnn: eñ. Og i þad sama sinne vard Vespatianus vt af synu sialfs Stryds folke til Keisara tek en. Enn sydan epter þad/ þa dro hañ jnn j Egiptaland/ Og þadan villde hañ so komast i Valland/bifalande Tito a medan Yuersion Herrnadarens vid Gydingana. Eñ sem Titus hafde fyrer forvitnes saker rided hart nærre Jerusalem/til ad forheyra huört þeir villdu beidast Fridar edur ei/þa lá hönum sierlega vid ad komast ecke vndan / þad hañ yrde eige handteken af Gydingonum. Enn epter þad sama/þa sette hañ synar Herbwder nærre þm Stad sem kalladist Schopos/skamt eitt burt fra Borgeñe/ so sem ad vera munde ein stutt Bæarleid/og j sundur skipte þar synu Stryds folke j margar Fylkingar/til ad vmsitia Borg ena meir enn j einum stad.

Jafn framt þessu / þa var opsa martt Folk vt af öllum Strödum og wr öllum ættū þeß sámans komed mitt i Jerusalem/vm Paska Hatyd.na.

Hatzidena. So lijka voru þar og efenen j Stadnum (epter þui sem adur er sagt) marghatt ad jllþydis Folk/til samans komed / huört ed vt drifed var af Galilea/Og voru so i þrem Hopum þar i Stadnum / huerier ad sam þykt ed og Rijkes stiornena (epter þui sem þad vard de er til huar sö er hattad) einatt meir og meir i sundur slitu og þorhindrudu. Einn part vt af þessu jllþyde hafde Myfered jnne ad hallda / Enn þeirra þlocks Foringe var Eleazarus sonur Simonis. Med honum hielldu þeir sem Zeloti köllrdust / huörier ad voru vonder og jllskuþuller hræsnis Menn/ þeir ed Borgar mönnonum voru miög ohxger j vidskiptum.

Hinn nedra Parten Borgarennar hafde Johannes jnne ad hallda/þa sem ad var einn Upphafs madr til allrar Olu ku/ vt af huer sum þad hier adur þyrre sagt er. Enn þann hinn efsta parten hafde Simon/ med tuttug u þusunder jnne ad hallda/huörier ed þangad voru til þess kallader/ad biuara Borgar lyden þyrer Opsa og yþergange þeirra Zeloti. Enn vid þa sömu geste villdu þeir giarnann hafa skilder veret/þo þeingu þeir ecke vid þa kuitt er orded.

Enn sem Titus hann þormerkte nu / þad Borgen Jerusalem var so opur hladen vt af þormyklum Manþiölda/Ruddist hann vm þast skipande sijnu Herlide til ad bileggia Borgena og eitt-herwirke kringū hana at setia(epter þui

 sem

sem þad Christus sialfur hafde adur fyrer sagt) a medan Folked var þar so margt til samans komed/vppa þad ad Hungrid og sullt uren þuingade þad og kuelde þess hardara. Þa ed Gydingarner sau nu þad / lietu þeir j frame allt huad þeir formattu/og leitudu vid ad forhindra/ad veria/ad fyrer koma slykum hans asettninge. Enn þad var vt giört vm þeirra Efne/so ad þeir voru med öllu Luckulauser/ Þuiad Gud Drottenn villde nu mya þeim og Midran veita/ þar fyrer þa luckadest þeim eingen syn Radagiörd nie neinn asettningur. So þar var ecke jnnbyrdes hia þeim/ vtan Osamþycke og Misgreiningar. Og j þann sama Tyma giördest myked Vpphlaup jnn an Stadar/so þar vard eirn ofurmykell mann fiölde j Hel sleigen hia Musterenu.

Enn med þui ad Borgen Jerusalem var nu sterklega bygd og miög vel vmuendud/helst þo þar huar þeir mattu ad Borgenne komast/ Þui þar þa hafde hun þria Murvegge i kring vm sig. Enn þad hid Romuerska Strydsfolked lagdest þar ad/vt af öllu kappe og Megne til ad storma og strijda vppa Borgena. Og epter mykla Eruidesmune framda / þa vard sa hinn tuofallde Murueggurenn nidur broten og yfer vnnenn. Lijka þa hefz og eirnen i þann tyma eirn otölulegur Folks fiölde daed nidur vt af Hungre og sullte/ epter þui sem Josephus hann skrifar / So þad fyrer eins lytels Munnbita sater/hafa optsinnes hiner bestu Vin

er sleigest

er ſteigeſt og ſtungeſt ſyn a mille. Opt og mðe gu ſinne þa hafa Börnen/a ſynum Forelldrū bæde Födur og Modur/rifed og ſlited Maten burt fra þra Munne. Þa hefr og huörke Syſt er nie Broder Zynkind veitt / eda j Brioſte kient huört vm annad. Eirn Mæler Korns gillte þa mörg Gyllene. Sumer toku Myke og Nauta tad og atu fyrer Hungurs ſaker. Þeir voru og ſumer ſem nögudu Olar og Pueinge/af Skiölldum og Södlum og annad Skolednr/og atu þad. Nöckrer höfdu og haft Hey ſier j Munne/og funduſt ſo dauder. Sumt er höfdu og fared j leyn leg Nadhws eda pre uet/ og leitad vid ad ſlöckua ſitt Hungur vt af opecktar ſaurendum/og Maga þreck. Og ſoddan eirn otölulegur Folks fiölde/hefur þar vt af Hungre daed/þad Ammis Eleazari ſon flyde j þan ſama tyma til Titum/ burt j hans Herbwder/og kuñugt giörde honum/þad hund rad þuſunder / og fimtan þuſunder daudra Maña Lykamer hefde fundner og greptrader vered jñan Stadar. Egeſippus han ſkrifar ſo/ þad alle naſta vt vm eitt Borgar hlid hafe bornar vered margar þuſunder daudra Maña Lykamar/ og þad ad j0 nær ſem ſiö hundrud þuſund Manna / hafe j þeim ſama Ofridar ſideme j Hungre daed.

Gydingarner þeir höfdu eñ nu Kaſtalañ Antonia'n jnne ad hallda. Sa ſame Kaſtale var eitt örugt Hermirke. Þeir höfdu þa og eirnen Muſtered jnne ad hallda. Enn þar vr

Þui þa geck ein Bryggiá eður Steinbo ze/alle inn i Borgena. Þesse Sloten og Keruirken voru myklu torsottare ad vinna/ helldur enn öll önnur Vigge og Keruirke Gydinganna. Þui þo ad Titus hafe være i fullre vissu um þad ad Ku igured munde eyda og afma Gydingona j Borgenne / þa þotte hönum sem þad munde allt forleinge þo undan dragast/ Og þar fyrer huatte hann upp Lided/ og eggiade þad a/ ad strijda og storma sem hardlegast uppa Rast alann. Og þo þad være ecke allitel Mannhætta þa vanst þo alla tijma þeim Romuerium betur/ so þeir bæru Sigur j huörre Orustu / af þui ad eingen Sigursæld / nie Luckulan var nu meir hia Gydingonum.

Enn þa hiner Romuersku höfdu nu Rast alan yfer unned og under lagt/hafde Ludur þeytaren giered þar eitt Merke til þess med Herlwdurs blæstrenum/ad aller þeir Gyding ar sin Rastalan höfdu hallded skylldu j Hel slegner verda. Sumum þa kostudu þeir ofan fyrer Murenn/ sumer stucku þar sialfer ofan fyrer og drapu sig so. Sumer komust a hard re rais undann um Nottena jnn j Borgena. Epter þad þa tok sig til samans þad Stryds folked sem Mustered hafde jnne ad hallda/ og varde sig so þadan alldreingelega. Menn seigia og eirnen/ad Titus hafe þess sinnes ver ed/ad hann hafe viliad vægia Musterenu sialfu (so sem annare Religion). Enn þad var þa um þeirra Epne med öllu utgiort/Gud hann

skickade

skickade þa so en/ ad þar var þa einginn Kyrr
gunden leingr/nie nein Vægd þeim til handa.
Og þa er þeir høfdu nu harda adsokn
veitt/og vm langa Tijd barest med myklum
erviides munum/ Og þad Gydingarner vrdu
huorke med hørdum heitingum nie neinum ød
rum Aminningū fortalder j þui/ad giefa vpp
so őrugt Heruirke/ Þa formerktu og eirnen
Strijdzmeñerner/þad Mustered matte ecke yfer
er vinast med ødru mote/vtan þeir være suelte
er þar vt (huad hiner þeinktu ad oflangt
frest munde a verda) ellegar þad være med
Ellde af brent. Og þar fyrer þa lõgdu sumer
Strijdsmeñerner Elld j Mustered/so þad tok
þa þegar til j einu Baale ad breñā. Og med
soddan atfelle/þa vard j greindan Tijma/ſsse
hin sama so agiætleg/þrabærleg og forkostu
leg Bygging/sem so vijdfræg og nafn kunnug
var a þeim Tijmum/ ad Ausku vpp brend nid
ur j Gruñ til kalldra Kola. Þeir Gydingar
ner sem høfdu j Musterenu hid őruggasta
Vijge jnne ad hallda / nockrer vt af þeim þa
flydu jnn j Borgena / enn myklu fleire voru
þeir sem tortinduſt i Ellds brunanum. Pre
arner þeir beiddu og badu nærsta audmiuk
legaña sier Lyfs og Grida/ Enn þad fieckt
ecke med neinu mote / Þui þeim var þa aul
Nææd afsõgd hia Gude og Mõñonum. Titu
hafde giered (so sem Egesippus hañ skrifar
þad Andsuar/ Fyrst ad Musterid og Embæt
es þionustan/være nu vtgiõrd þa þyrfte Pre

 Og ecke

og eꝛ̃e ſeinꞇut ſkÿrd Preſtana vid.
Enn þeſſe hin ſama Forcydſla og Niduꝛ brot Muſtereſins/ þa hefur ſkied a hinum tiu unda deige Auguſti Manadar/eins lÿka og þ hid fyrra Muſtered ſem a þeim ſama Deige vor forbrent af Nabogodonoſor Babilonar Kongs. Og ſa ſame Dagur hefur Muſterenu fierdeiles vered eirn Ozkafuſamlegur Dagur. Enn j fra þui hinu fyrra Muſterenu og þeſſ vppbyggingu/huert ed Salomon liet vppbygg ia/og til þeſſa añars Aarſins ed Veſpatianus hañ ryktte/þa ed þetta Muſtered vaꝛ ad Velle nidꝛ broted/ voru þuſund atta og attatigu er Aar. Eñ i fra þeim Tÿma/ er þeir hoffdu til tekid ad vppbyggia þetta hid annad Muſt ered/ſem var a odru Aare Cyri þad voru fim hundrud atian Aar og ſiotÿge.
Þa ed Gydingarner vrdu nu ſo hrædder ſtader og þuingader þott þar være eingen Von til ad þeim yrde biargad/ſo þad maurg þuſund dou af þeim/j Hungre og Sulite / þa huelldu þo hiner adrer ſamt ſÿnu frañ. Joſephus hañ ſkrifar/ad j þañ tÿma ſem Muſt ered vard vpp brent/nidur broted og eydelagt ad þa hafe eitt ſoddan ognarlegt/hryggelegt/ og herkelegt Malæþne til bored/þad varla mũ ſe hia þeim ſem ſeirna kiame/truanlegt þikia ſem þetta/ Ad þar var ein Heidurſamleg Kuña/ miog audug/ og vt af forlofſtulegu Slette/huor ed bued hafde hinumeigen Jordanar/og þangad hafde med odru Folke til Jeruſalem

falem fyrer hræſlu faker/ enn þa ed Borgar-
lydurenn/vard nu ſo hrædelega þiadur/og aum-
lega þuingadur j vesalldar Hungre/ hefr hun
teked ſitt eiged Barn wr Vögguñe og drepet
þad/med huörre Meyd og Angurtrega/er vel
epter hyggianda / ad hun hafe þ giört/ſteikte
ſo ſijdan helftena af þui j Ellde / og neytte
ſialf/enn adra Helftena ſette hun fram fyrer
Strijdsmeñena/þa ed þeir räſudu vm kring ſ
Börgeñe/ leitande ſler ad viſtum / En ſoddan
Atburdur ognade miög Strijdſmöñonum/ ſo
ad þeir vorkyntu þeſſare aumre Konu/og at
litu heñar anaud/ Þetta hid ſama kuñgiördu
þeir og eirnen Yfervalldſhöfdingiöñum til
Jeruſalem/ſo ad þeſſe hryggelegur Tilburdr/
hefur knued þa til ad giefa ſig vpp a Vallð
Titi og hans Maña/ad þad mætte ſo komaſt
til Dagkyngunar med þeim/ enn med þui ad
þeſſu hafde ofleinge freſtad vered/ad Fridur
en/ Satt og ſamþyke være giörd/og þad þeir
beiddu ſier þa ed fyrſta Fridar og Frelſes/ſi
þeir voru med öllu vthungrader/og j Veſölld
yferkomner/ þär fyrer þa vard ecke neirne
Dagþyngan a komed/og þo hielldu þeir ſam
Staden vm nockra Daga/med myklu Eymd
ar anaud/enn þeſſ a milli þa ſlude ötöluleg
ur Folks fiölde fyrer Hungurs og anaudar
faker wr Borgeñe / burt j Ovina Hendur til
Herbudaña/þa voru þeir og ſeilder med litlu
Verde/enn j þeim ſiuſonum vrdu Strijdsmeñ
erner oforuarandes þeſſ aſkyma/ þad eirn af

Gydingonum

Gydingonum hefde kynt vpp Gull vr sialfs sijns eigenlegum Saur/ huört ed hañ skyllde adur hafa gleypt og nidur rent/ so ad þad være ecke fra honum tekid/enn jafn snart þa barst þetta vt vm allar Herbudernar a medal Strijdsmañaña / þad þeir Gydingarner sem flued höfdu vr Borgeñe/skylldu hafa gleypt Gull i sig (þuiad þeir voru nöckrer / sem þad höfdu giört til eintkis añars / enn fyrer sma smuglegs ranfaks saker/ad þeir feinge so Gull enn vndan komed og fyrer Strijdzfolkenu bi-hallded) Eñ þetta hid sama Rykted gaf efne til þess / þad nöckrer vt af Strijdsmöñonum þeinktu ad þeir mundu fiña noglegt Gull hiä öllum Gydingonum/og þar fyrer vrdu meir enn tuær þusunder Gydinga kuiker vppskorner a einne Nott/ og myklu fleire þa hefdu þeir drepner vered / ef ad Titus hefde ecke latted fyrer bioda/ þad ei skylldu Fangarner fleire drepner verda.

Af þann sama tijma var og sialf Borgen Jerusalem vppgiefeñ/og eingen vægd var þar veitt huörke vngum Manne ne gömlum/ Eñ þo giec̈k þad bod vt / ad vægia skyllde öllum farmꝺum/ og verndarlausum þeim ed önguã Vörn edr motstödu formattu ad veita. Med soddan Hætte vard nu öll Jerusalem þañen herfelega rænt/ruplut og med Ellde vppbrend og hennar hinn mieste partur so foreyddur og nidur brotenn/vtan þad fæein Hws stodu þar epter/fordæ fleire eñ so sem Romuerska strijdz

folked

Folked mætte jnne vera/ so sýka voru þar og eirnen nöckur eyde Hws/Bygginga og Mur uegger epter latner/ ecke vtan til Synis ad þar hefde Fordumdaga ein megtug Borg ver ed. Og med þessu mote var nu Jerusalem bor eydd/ og ad Vellenidur broten þan attunda Dag Septembris manadar / j hinum fimta Manude epter þad ed hun vard fyrst vm kringd af Romverſku Strydsfolke. Vt af þm mykla ofölulega Manfielda / sem Titus liet fanga/sende hann seytian þusunder burt i Alexandriam alle saman vnga og kaska Karll menn/seliande þa þar i eilyfan Þrældom/ til ad bera Griot og Steina/ og til alls annars þunga Erfides/ Margt vngt Folk seilde han sem annan Bufienad / fyrer mióg litla Verd aura. Tueimur þusundum skiptu þeir vt vm allt Roma ryke/hier og huar j ymsar Lands alfur/ so ad þeir voru hafder til Athlaturs og skiemtunar / nær ed Hoof og Mannamot voru hallden/ Og þeir lietu ofma Hunda/og ennur Villudyr þa suma til Heliar ryfa, En þeir Gydingarner sem Lyfenu hielldu/ voru alls ad tölu nyutyer þusunder/ og sió þusund er/sem þar hafde so med fyrsta i Stadnum vered/ þa ed Borgen var fyrst buögd og vm kringd / Tiu sinnum Hundrad Þusunder Manna/ Hinn mesie partur af þessum Folks fiölda voru vtan Stadar menn/enn ecke jnn byggiarar i Borgenne / þo ad þeir være flester aller vt af Gydinga Kyne,

Enn

Enn ſem Titus hafde nu þannen med Strijde og ofridar ſtorme Jeruſalem yfer vn̄id/hana forbrent og i eyde lagt/ þa ſette hn̄ þar nidur i þeirre ſömu Lands alfu/nöckra Strydſmenn til Landuarnar / meſt fyrer ſaker þeirra Landſmanna er þar biuggu j hand / Og ſo ſydan dro hann i burt þadan/ allt jnn til hins mykla Vatſins Euphraten/ Þui ſo langt wt i Heimen tok þa i þan̄ tijma hid Romuerſka Ryked / Enn þa ſu Magtar mykla/ Nafnfræga/og hin heilaga Borg Jeruſalem/rar nu þan̄en foreydd og nidur broten/ Sie/þa reiknadeſt fra Vpphafe Veralldarinnar/fiögur þuſund eitt aar og tuttugu/ En̄ j fra þui ed Roma Borg var vpp bygd / nyu hundrud og fim̄ aar/a þui hinu fertugaſta aare epter þad Chriſtur var pijndur af Gydingunum/ Þan̄en hefur nu Jeruſalem ſu hin nafnfrægaſta Borg/ j allre Auſtur alfu/haft eirn̄ herfelegan̄ og ſargrætelegan̄ Enda.

Med þeſſum hætte hefur Gud hefnt og ſtraffad Forſman og ofiökn Heilags Euangelij og ſoddan eitt hryggelegt Epterdæme/ öllū Heimenum fyrer ſioner ſett / til eirnrar viduörunar/ad Men̄ ſkylldu þeſſ helldur ottaſt Gudz Reide og hans hardan hefndar Dom/ og ſnuaſt til Gudz og vors Herra Jeſu Chriſti ſan̄rar iþrn̄ingar/ þuiad fyrſt Gud Drotten hefur ecke vægt þeſſu Folke/huöriu han̄ hafde þo adur ſo miög agiætleg Fyrerheit giefid/huar ed eirnen ſo marger frabærer Heilga

er

er Patriarchar / og Prophetar / voru med þ
bland/ Ja/ huört Folk ed sialfum Christo til
heyrde Blodsins vegna. Huörsu ogurlega mun
hann þa hefna og refsa ödru Folke/ huörium þ
Gudz Euangelium er vt af sierlegre Nad ad
Hlutskipte orded/og eru þo samt oþacklater
forsmaande so þa sama Guds Þionustu og
rietta kynning af Christo Jesu/og þad sama
med mykel're Hardwd og ofurlegre offotn
fyrerlytande / so ad ædur finast varla Dæme
til slyks/þar fyrer þa er þad med öllu efflaust/
ad Hefnden mune ecke leinge fiarlæg bliifa/
og þad mun vm þeirra Eyne so fara / sem
þad hefur j Jerusalem til geinged/ enn þetta
hid sama skulum vier nu af allre Athygle
hugleida/ og vel tractiera j vorum Hiörtum
so ad vier forbetrum vorn Lifnad og
snuum oss til sannrar Jhesu
Christi Kynningar Amen.

FINIS.



